Tvisvar í mánuði

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista)

3.ÁRGANGUR 13.TBL. 2.NÓVEMBER - 16.NÓVEMBER 1977 100kr.

## 60 ár frá Októberbyltingunni

Sjá leiðara bls.2

## Ísl. auðmenn hylla Brésneff

sjá baksíðu

## Munum fræðslu fundinn 5.nov.

Vbl. minnir á 2. fundinn í fundaröð EIK(m-l). Hann verður í húsi Hins ísl. prentarafélags við Hverfisgötu, laugardaginn 5. nóv., kl. 15.oo og er fundarefnið: Stéttarfélögin sem baráttutæki verkafólks. Flutt verður framsaga um efnið og síðan verður almenn umræða og umræða í starfshópum. Mun hún taka mið af eftirfarandi útgangspunktum:

- Er nauðsynlegt, að verkalýðshreyfingin standi undir pólitískri forystu byltingarsinna? Hvað þýðir það fyrir mat á sögu ísl. verkalýðshreyfingar?
- Höfuðóvinurinn innan verkalýðshreyfingarinnar er uppkeypta forystan, en hvorki "íhaldið" né "uppmælingaaðallinn" eins og hefur verið haldið fram. Hvað þýðir þetta fyrir baráttusinna?
- Það er nauðsynlegt að byggja upp andstöðulið innan stéttarfélaganna. EIK(m-l) fylgdi þeirri stefnu að skipuleggja þau í liðsmannasamtök utan stéttarfélaganna. Er þetta rétt? Ef ekki, hvernig á sameiningu þessara hópa að vera varið?
- Verkalýðshreyfingin, sem heild er í varnarstöðu gegn herferð auðvaldsins á kjör og réttindi verkafólks. Baráttustefnan er ung og skortir enn tengsl við fjöldann. Hvað þýðir þetta fyrir kröfugerð okkar og starfsaðferðir?

Næsti fundur í fundaröð EIK(m-l) verður laugardaginn 3.desember. Verður þá fjallað um þróun sósíalismans í Alþýðulýðveldinu Kína.

3.des. fundur í fundaröð.

## Barátta BSRB

# Dýrmæt reynsla en rýrar kjarabætur

Fyrsta verkfalli BSRB er nú lokið, og nú ber að meta framkvæmd þess og niðurstöður til þess að læra af reynslunni. Samningarnir sem BSRB-forystan skrifaði undir eru ekki til að hrópa húrra fyrir. Þessi fullyrðing er rökstudd frekar síðar í greininni. Verkalýðsblaðið lítur því svo á að samningana beri að fella í allsherjaratkvæðagreiðslunni nú í nóvember, en hins vegar er baráttusinnum ljóst að til framhaldsbaráttu þarf að þétta raðir BSRB-félaga, berjast áfram gegn undanslætti BSRB-forystunnar, efla verkfallssjóðinn og nota það fé sem í hann kemur. Þetta eru bæði skamm- og langtíma verkefni baráttusinna innan BSRB.

Kröfur BSRB.

Upphaflega miðuðu kröfur BSRB fyrst og fremst að verulegri kauphækkun, rétti til endurskoðunar á kjarasamningi með verkfallsrétti á samningstímanum og nokkurri leiðréttingu launastigans. T.d. var krafist 150 þús.kr. launa í flokki B5 og 180 þús.kr. í B11 (B5 og B11 eru einna algengustu launaflokkarnir).

Fyrir almenna félaga BSRB er krafa um bættan verkfallsrétt algjör grundvallarkrafa. Hins vegar voru launakröfur BSRB í lægra lagi ef t.d. er miðað við kaupmátt eins og hann var einna skástur í langan tíma, þ.e. vorið 1974. Skv. því ættu lægstu laun að vera hærri en kröfur BSRB voru.

En höfuðatriðið er þó að kröfur BSRB voru í raun lágmarkskröfur, sem þorri BSRB-félaga stóð saman um. Í ljósi þessa var undansláttur forystu BSRB rangur og óverjandi - t.d. var 150 þú.kr.-krafan komin niður í 120.00 fyrir verkfall.

Þáttur stjórnarinnar.

Undansláttarstefna forystunnar er dæmi um lítinn styrk hennar og skort á stéttarbar-

Framhald á bls.3

## Verkfall BSRB

# Viðbrögð afturhaldsins

Verkfallsbarátta BSRB hefur fengið mikið rými á síðum dagblaðanna bæði í og eftir verkfall. Blaðaskrifin hafa gefið nokkuð góða mynd af afturhaldsöflum þessa lands, hugsanagangi þeirra og viðbrögðum við kjarabaráttu verkalýðs og annarar alþýðu. Minnir það um margt á viðbrögð borgarastéttarinnar í upphafi verkalýðsbaráttunnar, þegar verkalýðurinn barðist fyrir viðurkenningu á samtökum sínum - enda um sömu hagsmuni að ræða þá og nú.

Morgunblaðið hefur að vonum verið fremst í víglínunni og eytt mestu púðrinu, gekk blaðið fram af mörgum Sjálfstæðismanninum vegna opinskárrar andstöðu við baráttu BSRB. Morgunblaðið birti dag eftir dag einhliða upplýsingar um áhrif verkfallsins á gang "þjóðarbúsins" ásamt hótunum fjármálaráðherra um niðurskurð opinberrar þjónustu og skattahækkanir. Mörg "fórnarlamba" verkfallsins voru elt uppi af blaðamönnum Mbl. og látin vitna um vonsku verkfallsmanna, spöruðu þeir sér hvorki ferðir til Keflavíkur né út á ytri höfnina í Reykjavík. Og seint gleymist ákall útlendu "gíslanna" sem birtist á forsíðu Mbl. Einna merkastur var þáttur Morgunblaðsins í baráttu forystumanna Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar gegn hagsmun-

Framhald á bls.3




## GERUM 1.DES. AÐ BARÁTTUDEGI ALÞÝÐUNNAR!

Eins og skýrt var frá í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins var í undirbúningi stofnun baráttunefndar 1.des. Nú hefur Baráttunefnd 1.des. lagt fram stefnugrundvöll og fer hann hér á eftir:



Frá Lækjartorgi 23.sept. 1946. Alþýðan í Reykjavík mótmælir Keflavíkursamningnum, m.a. með allsherjarverkfalli. Gerum 1.des. að baráttudegi gegn her, NATO og allri risaveldaásælni. Það er í anda íslenskri alþýðu sem barðist í langan tíma fyrir sjálfræði.

1. Baráttunefnd 1.des. er stofnuð til þess að vekja upp og viðhalda baráttu íslenskrar alþýðu gegn allri erlendri ásælni og gera fullveldisdaginn 1.desember að baráttudegi þessari viðleitni til framdráttar.

2. Baráttunefndin mun beita sér fyrir aðgerðum 1.des. n.k. undir kjörorðunum:
1. Verjum sjálfræði Íslands.
2. Gegn erlendri stóriðju.
3. Ísland úr NATO - herinn burt.
4. Gegn báðum risaveldunum, USA og Sovét.

3. Allir sem styðja þessi kjörorð geta orðið aðilar að nefndinni.

GREINARGERÐ FRUMKVÆÐISNEFNDAR.

Stórum hluta verkalýðs og alþýðu er ljóst, að verja þarf efnahagslegt og pólitískt sjálfræði landsins.

Það þarf að verja það sjálfræði sem áunnist hefur, og það er fyrst og fremst verkafólkið, en einnig önnur alþýða, sem þetta sjálfræði vill verja. Auðstétt með einokunarauðvaldið í broddi fylkingar skerðir þessa þetta sjálfræði þegar gróðahagsmunir krefjast þess. Nú síðustu árin hefur auðstéttin í gegnum ríkisvald sitt opnað allar gáttir fyrir erlendum auðhringum. Þann tíma hefur komið greinilega í ljós, að ekki skiptir máli hvort við völd er s.k. hægri eða vinstri stjórn. Reynslan sýnir, að þær vinna hvor um sig jafn ötullega að innflutningi erlends auðmagns.

Baráttan fyrir sjálfræðinu fer fram á fleiri sviðum. Ber þar hæst baráttan gegn NATO og hernum svo og efnahagslegri og hernaðarlegri ásælni risaveldanna, USA og Sovét. Hérlendis er baráttan gegn USA-heimsvaldastefnunni mikilvægari. Auðstéttin heldur því fram að vera hersins og NATO-aðild séu fyrst og fremst til varnar sjálfræði landsins Ljóst er að svo er ekki. Staðfesting á því fékkst í síðasta þorskastríði. Herstöðin og NATO-aðildin eru annars vegar til að verja hagsmuni

Framhald á bls.3.






# 60 ár frá Októberbyltingunni

## Enn eru komnir keisarar í Kremlarhallir

Nú í nóvember eru liðin rétt 60 ár frá stofnun Sovétríkjanna, fyrsta sósíalíska ríkis veraldar. Þessi atburður, sem markaði tímamót í baráttu kúgaðra gegn afturhaldi um allan heim, vakti fögnuð og sýndi verkafólki víða um lönd svart á hvítu að þrotlaus og fórnfús barátta færir alltaf sigur að lokum. En valdbylting verkalýðs og alþýðu í Rússlandi var enginn lokasigur, heldur aðeins áfangi á leiðinni.

Afturhaldið hafði misst þjóðfélagsvöldin, en það lifði áfram og leitaðist stöðugt við að grafa undan hinu nýja sósíalíska ríki og ná völdum á ný. Saga Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna á dögum leiðtoganna Lenins og Stalíns er því öðrum þræði saga baráttu verkalýðsins með kommúnistaflokkinn í broddi fylkingar annars vegar og leifa borgarastéttarinnar (utan flokksins jafnt sem innan hans) hins vegar. Þessi barátta var upp á líf eða dauða Sovétríkjanna. Mörg mistök voru gerð í þessari baráttu, en margir glæstir sigrar voru líka unnir bæði í uppbyggingu sósíalismans og einnig á alþjóðavettvangi. Ber þar hæst sigursæla baráttu alþýðu Sovétríkjanna gegn þýska nasismanum. En óvinurinn vann stöðugt að því að naga rætur hins sósíalíska ríkis og beið færis til að leggja til atlögu. Forysta kommúnistaflokksins gerði sér að sumu leyti ljósa grein fyrir ástandinu, en henni auðnaðist ekki að beita hinu eina rétta vopni gegn gagnbyltingarhættunni: virkjun alþýðufjöldans sjálfs, gegn afturhaldinu. Eftir dauða Stalíns 1953 efldi afturhaldið um allan helming baráttu sína fyrir því að ná völdum, og það heppnaðist. "Árangurinn" af þessu þekkja lesendur mæta vel: Í stað hins sósíalíska ríkis og bakhjarls verkalýðs og kommúnista um allan heim um áratuga skeið, er nú endurreist auðvaldsríki í Sovétríkjunum - ríki sem teygir sínar helkrumlur um alla jörðina og býst til að leggja út í heimsstríð til að auka við áhrifasvæði sín.

En þrátt fyrir að dimmt sé yfir Sovétríkjunum nútímans, þá er víst að þar mun birta á ný. Þegar er vitað, að verkafólk og aðrir baráttusinnar búast til baráttu á ný gegn "keisurunum" í Kreml. Þeirri baráttu mun óhjákvæmilega lykta með valdatöku verkalýðsins og uppbyggingu nýrra Sovétríkja sósíalismans. Og þá mun rauði fáninn á Kremlarmúrum ekki lengur verða aum tuska fyrir Brésnjef og konu hans að dyljast á bak við, heldur stolt merki verkalýðsins í landinu, sem á sér glæstar baráttuhefðir.

LIFI HIN MIKLA OKTÓBERBYLTING Í RÚSSLANDI!

## Mikill sigur!

Nú er prentvélasöfnunin komin í höfn, löngu á undan áætlun. Það sýnir að velunnarar blaðsins eru margir, og eru reiðubúnir að leggja sitt af mörkum til eflingar VERKALÝÐSBLAÐSINS og marxlenínískru hreyfingarinnar á Íslandi. VERKALÝÐSBLAÐIÐ þakkar fyrir sýndan stuðning í þessari söfnun, sem mun verða til þess að blaðið verður enn betur undir það búið að þjóna fjöldanum.




# Landsráðstefna SHA
## Skýr hentistefna

Í síðasta tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS var dregið saman yfirlit og mat á nýafstaðinni landsráðstefnu Samtaka herstöðvaandstæðinga (SHA). Kom þar fram að fjöldastefna marx-lenínista og barátta fyrir því að SHA taki upp stefnuskrárbundna afstöðu gegn báðum risaveldunum náði ekki fram að ganga. Að auki var enn á ný hrúgað upp af viðamiklum verkefnum og engin undirstöðuskipulagning starfshópa tekin upp.

Marx-lenínistar meta því ráðstefnuna mjög lítið skref framávið - en bentu hins vegar á að andstæður innan SHA væru skarpari en áður.

### Afstaða gegn skipulagi.

Sú afstaða ýmissa tegunda stofu"sósíalista", að baráttan vakni sem næst af sjálfu sér og að "allt sem vanti er viljinn", kom greinilega fram í SHA. Mikil andstaða var gegn tillögum marx-lenínista í þá átt að fastara skipulag grunneininga væri tekið upp. Sama má segja um tillögur að fastara og einfaldara skipulagi útgáfumála, þ.e. reglubundinni útgáfu Dagfara og eingöngu dreifirita að auki. Var þetta kallað ofskipulagning. Rök þeirra gegn venjunni að leggja sem minnst niður af verkefnum handa almennum stuðningsmönnum og treysta í sífellu á "vinveitt samtök" þóttu léttvæg. Samtímis er ljóst að skortur á réttri skipulagningu og hæfilegri verkefnaskrá er að eyðileggja samtökin í þriðja sinnið.

### Afstaða gegn umræðu.

Útbreidd var afstaða "lýðræðissósíalista" gegn því að rædd yrði stefna og starfslög SHA á næsta ári til að reyna að gera út um deilumálin. Tillaga marx-lenínista var felld með þorra atkvæða gegn 11 . Gekk hver þátttakandi skóinn af öðrum við að sanna að umræða skipulögð væri "óþarfi", þetta væri "pólitískt þras", sérhagsmunir einna samtaka o.s.frv. Fremstur í flokki var "Kommúnistaflokkurinn". Hann gat svo staðið með tillögu um andstöðu SHA við "heimsvaldastefnu Bandaríkjanna og drottnunarstefnu Sovétríkjanna."

Í stað þess að berjast ósleitilega fyrir því að Sovétríkin séu merkt sem heimsvaldasinnað risaveldi auðvalds og stríðsundirbúnings, er búið til meiningarlaust orðskrípi - drottnunarstefna - sem allir geta túlkað út og suður eins og stefnuskrána sjálfa.

Mergurinn málsins er sá að öfl innan SHA eru algjörlega andsnúin baráttu gegn báðum risaveldunum. Uppfinning "KFÍ/ML" á að plástra yfir þetta, vera málamiðlun við trotskista Fylkingarinnar og Kremlvini úr AB. Skiljanlegt er af hverju allir þessir hentistefnuaðilar sameinast um að koma í veg fyrir umræður um málin og ganga hver undir annan.

### Kosningatangó í vor?

Venjulega hefur AB nýtt sér herstöðvamálið og SHA í kosningabaráttunni. AB segist vera eini flokkurinn sem veitir málinu brautargengi á þingi (eins og dæmin sýna!)) og elur á blekkingunni um að þingsalabaráttan ráði úrslitum. Ráðstefnan samþykkti að SHA yrðu sérstaklega virk í kosningaslagnum. Í sjálfu sér er ekkert rangt við fjöldastarf þá, en það sést hvert stefnir þegar tillaga eins "marx-lenínistans" úr "KFÍ/ML" er skoðuð. Hún felur í sér áskorun til þeirra flokka sem hafa stefnumálið á dagskrá að standa við gefin fyrirheit! Svona barnaleg oftrú á þá flokka sem hafa táldregið vinnandi fólk áratugum saman á ekki heima í samtökum sem berjast vilja gegn heimsvaldastefnu og íslensku afturhaldi.

Fari nú í vor eins og áður að raunveruleg fjöldabarátta bíði hnekki vegna biðlana til falskra "verkalýðsflokka", stendur baráttan í sömu stöðu og undanfarna áratugi.

# Samtíningur






Nú hafa dagblöðin upplýst okkur um að Hitler og Stalín hafi verið nágrannar í Vínarborg um árabil. Aðeins örfá hús og járnbrautateinar skildu þá að. Þetta þykja greinilega merkar fréttir, en enginn hefur treyst sér til þess að kryfja þessa staðreynd til mergjar og draga rökréttar niðurstöður - alla vega ekki ennþá!

## Áhyggjur

Einn þeirra sem hafði geypilegar áhyggjur af verkfalli opinberra starfsmanna var Geir R. Andersen, einn af föstum kjallaraskríbentum Dagblaðsins. Hann benti m.a. á að í upplausninni sem verkfallið olli, þá gætu verkfallsverðirnir nælt sér í byssur og gert byltingu, og það sem meira var, Geir taldi mjög líklegt að svo yrði! Ekki rættist spádómur hans um þetta frekar en annað.

## „Sósíalistar" í sigurvímu

Ýmsir af þeim sem nefna sig "sósíalista" og eru hafnir upp sem "verkalýðsforingjar" Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins sýna sitt rétta andlit öðru hvoru. Lúðvík Jósefsson hafði þetta að segja um baráttu BSRB og óhæfa samningana:

"Ég tel að það hafi skipt miklu máli að það tókst að leysa deiluna áður en stefnt var í lengra verkfall, en efnislega get ég ekkert sagt um samkomulagið, því ég er ekki kunnugur því í smáatriðum" (Mbl. 26.10.)

Flokksbróðir hans, Sigurjón Pétursson, borgarfulltrúi, undirritaði samninga SR og borgarinnar, svo það er ekki nema von að Lúðvík sé feginn.

Björn Jónsson, forseti ASÍ sagði þetta:

"Það eru auðvitað allir fegnir að þessu skuli nú lokið og ég held að óhætt sé að segja að BSRB hafi náð þarna miklum árangri." (Mbl. 26.10.)

Það er auðstéttinni mikilvægt að eiga góða bandamenn. En vinnandi fólk verður að þekkja sína bandamenn og sína óvini.

# Gerist félagar í INUIT og KÍM

Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins var greint frá stofnun Grænlandsvinafélagsins Inuit, en því er ætlað að efla samskipti Íslendinga og Grænlendinga á sem flestum sviðum og styðja baráttu Grænlendinga fyrir sjálfstæði. Greinarhöfundi láðist hins vegar að láta fylgja með í greininni hvar fólk geti náð sambandi við stjórn félagsins, og skal nú bætt úr því. Þeir sem vilja gerast stofnfélagar, hringi í formann Inuit, Guðmund Þorsteinsson, sími 76241, Reykjavík. Þess má geta að nú eru stofnfélagar Inuit hátt á þriðja hundrað.

HVERNIG NÆRÐU Í KÍM?

Svipaða sögu er að segja um Kínversk-íslenska menningarfélagið -KÍM- sem blaðið sagði frá í 12.tbl. Þar var ógreinilega sagt frá því hvernig Kínavinir og áhugafólk um kínversk málefni getur náð sambandi við félagið. Nú skal það upplýst að það er hægt með því að skrifa bréf og senda í pósthólf 843 í Reykjavík, eða þá með því að hringja í Arnþór Helgason, formann KÍM, í síma 12943 í Rvík.

# Chen Tung farinn heim

Sendiherra Alþýðulýðveldisins Kína á Íslandi, Chen Tung, og kona hans, Chang Shu-chieh, eru farin heim til Kína að aflokinni 5 ára dvöl hér á landi. Chen Tung er fyrsti sendiherra Kína á Íslandi eftir að stjórnmálasamband landanna komst á og verður hans sérstaklega minnst fyrir þrotlaust starf sitt við að kynna heimaland sitt og byltingarstarf landa sinna fyrir Íslendingum. Sendiherrahjónin eru verðugir fulltrúar Alþýðulýðveldisins og Verkalýðsblaðið þakkar þeim mikilsvert starf þeirra í nafni íslenskra marx-lenínista. Það er óhætt að fullyrða að þau eiga drjúgan þátt í því hversu samskipti Kína og Íslands hafa aukist á mörgum sviðum frá stofnun kínverska sendiráðsins í Reykjavík.

# HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK(m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(ml) Akureyri: Hafnarstræti 79. Opið: Þriðjudaga kl.5-7 og föstudaga kl.4-6.
EIK(ml) Reykjavík: Óðinsgötu 30. Opið: Miðvikudaga kl.5-7, föstudaga kl.5-7 og laugardaga kl.2-4. Sími 29212. Pósthólf 5186.
EIK(ml) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskollegiet, S-102, Dalslandsgade 8, 2300 København S.
EIK(ml) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 694450 kl.17-20.30.
EIK(ml) hefur gíróreikning nr. 12 200 - 9.
Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Októberforlagsins og EIK(ml).

# Landsþing Alþýðubandalagsins

# Enginn fulltrúi „Ung-sósíalista " !

Fyrir dyrum stendur landsþing Alþýðubandalagsins. Alþýðubandalagið segist vera sósíalískur verkalýðsflokkur. Starf hans sýnir þó að svo er ekki - það ber "vinstri" umbóta- og sósíaldemókratískri stefnu flokksins verðugt vitni.

Annað mál er svo að AB tekst að ná úm 20% kjörfylgi vegna þess að fólki finnst hann "skárri en íhaldið" og margir treysta á þingræðið og setu AB-manna á þingi. Barátta flokksmanna utan þings er hvort eð er ekki til.

Á flokksþinginu mun fátt merkilegt gerast annað en það sem staðfestir dóm sögunnar yfir AB. Líklegt er þó að hjálparstarfið með ísl. atvinnurekendunum undir kjörorðinu "Íslensk atvinnustefna" festist enn frekar í sessi. Enda nauðsyn ef takast á að tæla Framsókn úr faðmi Sjálfstæðisflokksins.

AB- forystan tryggir stöðu sína í flokknum m.a. með kosningu fulltrúanna 62ja á þingið. Þar eru átta verkamenn og fjórir menn undir þrítugu! Athyglisvert er að "ungu sósíalistarnir", sem héldu fund á Akureyri fyrir skömmu eiga engan fulltrúa á þinginu! Kjarninn í stefnu AB er frekleg endurskoðun á marx-lenínismanum og afneitun á öllum helstu byltingarþáttum hans.

"Friðsamleg umbreyting til sósíalismans" er rauði þráðurinn hjá AB.

Marx segir svo: "Kommúnistar eru fráhverfir því að fela afstöðu sína og markmið. Þeir lýsa því yfir afdráttarlaust, að lokamarkmiðinu verði aðeins náð með valdbyltingu allra núverandi þjóðfélagsskilyrða." (Kommúnistaávarpið síðasta bls.) Þetta segir AB-forystan ekki gilda fyrir Ísland og vera í raun úrelt. Lenín segir svo: " Ef setja á stéttarveldi verkalýðsins í stað stéttarveldis borgarastéttarinnar, getur það aðeins gerst með valdbyltingu." (Ríki og bylting) Einnig þetta er úrelt samkvæmt endurskoðunarstefnu AB forystunnar, Krúsjeffs, Brésneffs, "Evrópukommúnistanna" og allra krataflokkanna. Maó segir svo: "Pólitískt vald vex úr byssuhlaupi - við viljum afnema stríð, við vildum ekki stríð, en það er einungis hægt að útrýma stríði með stríði, einungis hægt að útrýma byssum með því að beita þeim fyrst".

Og hvað sýnir reynsla áratuga verkalýðsbaráttu? Hún sýnir að þetta eru staðreyndir. Fari menn ekki eftir staðreyndum og tryggi samstöðu þorra verkalýðs og vinnandi fólks um þær, verður úr harmleikur eins og í Chile.

Þetta er inntak svikastefnu AB-forystunnar og mikil hætta íslenskri verkalýðshreyfingu.

Okkar tímar eru tímar hervalds og ofbeldis yfirstéttarinnar - eins og Lenín orðar það. Hann segir síðan: "Sjái menn þetta ekki, þegar rætt er að hve miklu leyti friðsamleg eða valdbundin bylting er einkennandi eða undantekning, falla þeir í gröf venjulegra handbenda auðstéttarinnar." (Liðhlaupinn Kautsky)

Ekki er að undra endurskoðun AB á ritum Marx, Engels, Leníns, Stalíns og Maó Tsetungs.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ MUN META NIÐURSTÖÐUR ÞINGS AB SÍÐAR.

# Málgagn sósíalisma tekur snúning með auðvaldinu

Það vakti athygli hversu Þjóðviljinn tókst á loft þegar sýningin "Heimilið '77" var haldin í september s.l. Blaðið fjallaði um sýninguna í máli og myndum dag eftir dag og gaf auk þess út tvö litprentuð sérblöð sem eingöngu fjölluðu um þennan merka viðburð - að mati Þjóðviljans.

Nú kann að vera að einhverjir þeirra sem hafa álitið Þjóðviljann vera sósíalískt málgagn hafi kippt sér upp við þennan darraðardans blaðsins í kringum slíkan augljósan "auðvaldsviðburð" og þessi auglýsingasýning var. En allt á sína skýringu og framferði Þjóðviljans er í raun auðskilið.

Ein ástæðan er sú, að Þjóðviljinn sá sér leik á borði til að keppa við hin dagblöðin í auglýsingasöfnun. Sérritin gáfu drjúgan skilding í sjóði blaðsins. Eitt helsta kvörtunarefni blaðsins undanfarin ár hefur verið hversu íslenskir auðmenn séu tregir til að láta fyrirtæki sín auglýsa í blaðinu, en nú virðist sem að blaðið hafi náð inn að hjörtum auðmannanna, því ekki skorti auglýsingarnar þegar "Heimilið '77" stóð yfir.

Önnur ástæða er tilraun blaðsins til að ná í nýja áskrifendur. Tókst það allvel. Aðalrök blaðsins í þessari sókn eru, að fólk verði að fylgjast með því sem Þjóðviljinn segir sem stærsta blað stjórnarandstöðunnar. Þannig útbreiðir m.a. blaðið út blekkingarnar um að öll mál ráðist í þingsölum.

Þriðja ástæðan er sú, að aðstandendur sýningarinnar eru margir hverjir bundnir Þjóðviljanum sterkum böndum. Til dæmis er Haukur Björnsson, stofnandi og aðaleigandi Kaupstefnunnar h.f. (sem hélt sýninguna), gamall vopnabróðir Einars Olgeirssonar, frá þeim tíma þegar hentistefnan sigraði innan gamla Kommúnistaflokks Íslands 1934. Ennfremur eru blaðafulltrúi og framkvæmdastjóri sýningarinnar báðir flokksbundnir í Alþýðubandalaginu.

Niðurstaðan af öllu þessu getur aðeins orðið ein, nefnilega sú, að Þjóðviljinn á ekkert skylt við sósíalisma nema skreytinguna í blaðhausnum. Blaðið er styrkt af mörgum auðmönnum, það er háð ríkisstyrk frá ríkisvaldi auðvaldsins og það stundar margs konar brask til að halda velli.

Slíkt blað getur aldrei þjónað verkalýðnum þar sem það byggir alla sína tilveru á grundvelli auðvaldsins. Hamagangur Þjóðviljans vegna sýningarinnar er enn eitt dæmi um það hverjum blaðið þjónar. Í stað sérrita um baráttu verkafólks og stuðning við hana, þá koma sérrit full af auglýsingum frá auðmönnum þessa lands.

# 1.DES.

Framhald af forsíðu

bandarísku heimsvaldastefnunnar, en hins vegar baktrygging innlendrar yfirstéttar gegn verkalýð og alþýðu.

En þrátt fyrir nauðsyn þess að berjast gegn heimsvaldastefnu USA og NATO má ekki gleyma baráttunni gegn Sovét, risaveldi sem lýtur sömu lögmálum og önnur auðvaldsríki. Sovétríkin eru vaxandi heimsveldi sem þrátt fyrir allt sitt friðarhjal vígbýst nú af kappi og er ein mesta ógnunin við heimsfriðinn. Áhugi Sovétríkjanna á landssvæðum og auðlindum um allan heim fer mjög vaxandi. Dæmi um ásælni þeirra á Norðurslóðum eru aukin ítök á Svalbarða og Barentshafi og flotaferðir þeirra á hafinu milli Íslands og Færeyja.

Íslensk alþýða þarf að vera á verði gagnvart báðum risaveldunum. Það ver enginn sjálfræði landsins fyrir íslenska alþýðu. Alþýðan sjálf er eina aflið sem vill verja sjálfræði landsins og mun gera það.

Sem stendur er þessi barátta ekki rismikil. Fáir eru til að skipuleggja þessa baráttu en andstæðingarnir eru sterkir. En það er nauðsyn að sporna við fótum og rétt að nýta öll tækifæri sem gefast til að vekja athygli á þessum málum og fá fólk til starfa. Eitt af þessum tækifærum er 1.des.

1.desember 1918 voru öll mál þjóðarinnar skilin frá dönsku krúnunni nema utanríkismál og þjóðhöfðingjatign. Þessi dagur er því tákn stærsta sigurs sem unnist hefur í sjálfstæðisbaráttu þjóðarinnar. Þennan dag er því tilvalið að nota til áframhaldandi baráttu fyrir verndun sjálfræðis.

Undanfarin ár hafa s.k. vinstri stúdentar helgað daginn ýmsum þjóðfélagsmálum m.a. andheimsvaldabaráttu. Fyrir utan margar villur eða jafnvel ranga hluti hafa stúdentar einokað þennan dag. Íslensk alþýða hefur staðið utan við. Þessu þarf að breyta og til þess hefur verið stofnuð Baráttunefndin 1.des.

Stofnun Baráttunefndarinnar 1.des. er mikilvægur skerfur til baráttu gegn allri heimsvaldastefnu og fyrir verndun sjálfræði landsins.

Baráttunefndin 1.des. mun hafa stofnfund sinn í Norræna húsinu fimmtudaginn 3.nóv, kl.20.30. Þar munu verða umræður um kjörorðin og grundvöllinn, starfið framundan rætt, og menning. Stuðlið að því að 1.des. verði öflugur baráttudagur og mætið í Norræna húsinu.

Frumkvæðisnefndin.



Er íslensk alþýða mótmælti NATO-samningunum 1946, kom hið rétta eðli borgarastéttarinnar fram.

# Dýrmæt ..

Framhald af forsíðu

áttustefnu. Áhrifamesti hluti forystu BSRB eru háttsettir embættismenn ríkisvaldsins eða forystumenn úr röðum gerfisósíalistanna í Alþýðubandalaginu. Í stjórn og samninganefnd er baráttusinna að finna, en fáa.

Í heild var verkfall BSRB dæmigert verkfall skipulagt eingöngu ofanfrá. M.a. skorti tíðara fréttabréf til félaganna, virkara lýðræði gegnum áhrifameiri félagsfundi og verkfallsnefndir einstakra félaga.

Félagar BSRB og aðrir hljóta því að hafa lært af þessu að efla þurfi lýðræði í BSRB, og að treysta skuli á fjöldann í baráttunni.

<u>Rangar undanþágur.</u>

Virðing BSRB-manna fyrir Kjaradeilunefnd auðstéttarinnar var alröng. BSRB hefði átt að draga fulltrúa sína úr nefndinni þegar ljóst var hvernig hún reyndi að stjórna verkfallinu. Síðan versnaði enn þegar BSRB tók að dreifa undanþágutilskipunum á báða bóga og veikja þannig stöðu verkfallsmanna.

Í verkfalli verður í aðalatriðum að neita öllum undanþágum sem ekki varða öryggi, líf eða limi fólks - sama hvað andstæðingurinn vælir og hamast - verkföll verða að vera <u>auðstéttinni og ríkisvaldi</u> hennar sem þungbærust.

<u>Enginn verkfallssjóður.</u>

Það er röng skipulagning að leggja út í verkfall án verkfallssjóðs, jafnvel þótt menn fái greiddan einn mánuð fyrirfram. Tillaga um að stofna sjóð var felld á síðasta BSRB-þingi með hjálp stórs hluta stjórnarinnar.

Ekki er of seint að hefja söfnun eins og nú er gert, en þennan tíma hefði átt að nota til að <u>efla</u> sjóð sem til var <u>fyrir</u> verkfall - miklu máli skiptir að verkfallsmenn <u>hafi</u> einhverja tryggingu í upphafi verkfallsins, slíkt mótar mjög gang mála.

En söfnunin í verkfallinu bar vitni þrýstingi BSRB-félaganna á stjórnina. Í þessu máli og öðrum <u>neyddist</u> stjórnin að herða sig vegna samstöðu félaganna - sbr. 90% NEI-ið stóra í atkvæðagreiðslunni.

<u>Deildu og drottnaðu.</u>

Ríkisvaldið er fulltrúi auðstéttarinnar, óháð hvaða ríkisstjórn situr. Það er auðvaldið sem er höfuðandstæðingurinn í baráttunni, ekki bara ríkisstjórn Geirs eins og Þjóðviljinn reynir að skrökva til um í von um að Alþýðubandalagið nái ríkisstjórnarsetu.

Ríkisvald auðstéttarinnar beitti mjög þeirri aðferð að hella haturs- og tortryggnisáróðri yfir fólk eða þá að það beitti aðalhlaupatík sinni - stjórn Starfsmannafél. Rvíkurborgar - til að kljúfa samstöðuna. Hvort tveggja tókst þó fremur illa.

En núverandi nýjir samningar eru ekkert til að fagna. 10-21% kauphækkun er of lág, bæði miðað við dýrtíðina og kröfur BSRB.

Enginn verkfallsréttur fæst á samningstímabilinu og endurskoðunarréttur á samningstíma er bundinn áfrýjun til "sáttanefndar" og óljósum ákvæðum öðrum.

Ýmsir minniháttar áfangar, launaflokkshækkun eftir 3 1/2 ár, persónuuppbætur eftir vissan starfsaldur, nýr kaffitími, aukið vaktaálag ofl, eru jákvæð atriði.

Óljóst er hvort allar áfangahækkanir tryggi verðbætur - í fljótu bragði sýnist það ekki vera. Um fulla verðtryggingu er ekki að ræða. Eftir eru sérsamningar við ýmis félög í BSRB. Þar eiga menn yfir höfði sér Salómónsdóm Kjaranefndar ef ekki semst innan 45 daga.

Í þessu máli er verðugt verkefni að berjast fyrir samningsrétti og verkfallsrétti félaga.

<u>Niðurstöður.</u>

Árangur verkfallsins í kjarabótum er rýr. Höfuðábyrgð þessa hvílir á undansláttarforystu BSRB og pólití[illegible] afstöðu hennar. En félagar BSRB, sérstaklega baráttusinnar í meirihluta, geta sumpart verið ánægðir. Verkfallið færði þeim dýrmæta reynslu, afhjúpaði raunveruleika ísl. auðvaldsþjóðfélagsins og benti á árangursríkari baráttuaðferðir. Skipulag BSRB þarf að endurskoða. Félagar BSRB mega ekki hika við að halda áfram baráttunni, m.a. með því að beita staðbundnum verkföllum, þó þau séu stimpluð "ólögleg", og vinna ötullega að því að knýja fram fullan verkfallsrétt. Núverandi lög eru óhæf. Vaxandi stéttvísi verkafólks og annarrar vinnandi alþýðu innan BSRB veit á gott.

# Viðbrögð ..

Framhald af forsíðu

um starfsmanna borgarinnar og raunar allra starfsmanna ríkis og bæjar. Þá var ekkert til sparað af hálfu blaðsins og logið grimmt. M.a. upplýsti blaðið að Reykjavíkursamkomulagið væri betra en samningarnir á Akranesi!

<u>SUNDRUNGARBRÖGÐ.</u>

Daginn eftir að starfsmenn Reykjavíkurborgar höfðu samþykkt þá birtist Geir Hallgrímsson á forsíðu og sagði hingað og ekki lengra. Þar með opinberaði hann hvernig borgarastéttin hafði hugsað sér að sigra - fyrst var veikasti hlekkurinn brotinn með dyggri þjónustu þýanna í forystu Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar - síðan skyldi stinga við fótum og neyða BSRB til að samþykkja sömu kjör. Almenningi skyldi talin trú um að félagar og forysta BSRB hefðu sagt skilið við skynsemina og væru komnir í "byltingarham" sem ógnaði allri "þjóðarskútunni". Delinkvintar eins og Albert Guðmundsson og Sigurður Líndal (sem er einn af aðalráðgjöfum ríkisstjórnarinnar í tilraunum hennar til að breyta vinnulöggjöfinni til hins verra fyrir verkalýð) gusuðust fram með lævísan áróður. Samtímis var hafinn mikill áróður gegn verkfallsrétti opinberra starfsmanna, þ.e. <u>eftir</u> að borgarapressan hafði reynt að telja almenningi trú um bagalegan gang verkfallsins í höndum BSRB. Flugmálastjóri, ferðamálaráð og fleiri komu fram og bentu á háskalegar afleiðingar verkfallsins fyrir sína hönd og auðvitað þjóðarinnar um leið. Allir þessir lögðust á eitt: Verkfallsréttur opinberra starfsmanna er af hinu illa! Landið í upplausn - ógn og skelfin! Morgunblaðið, "blað allra landsmanna" og stuðningsblað "mannréttindabaráttu" Carters Bandaríkjaforseta, gat ekki dulið andstöðu sína við mannréttindi BSRB-félaganna, bæði verkfallsréttinn á samningstímabilinu og fullan verkfallsrétt yfirleitt.

<u>HVAÐ BÝR AÐ BAKI?</u>

Hamagangur hins íslenska afturhalds skilst betur þegar það er haft í huga að undanfarin ár hefur verið undirbúin atlaga að samnings- og verkfallsrétti s.k. almennra verkalýðsfélaga. Alltaf er verið að ýja að því í ræðu og riti að "nú þurfi að endurskoða vinnubrögðin við gerð kjarasamninga" og "úrelta vinnulöggjöf" - það sem er átt við er að verkfalls- og samningsréttur skuli skertur frá því sem nú er. Barátta BSRB félaganna stefnir þvert gegn þessum áætlunum borgarastéttarinnar. Þessvegna rís afturhaldið upp á afturlappirnar þegar sýnt þykir að BSRB notfærir sér sinn takmarkaða verkfallsrétt. Barátta BSRB er því mikilvæg fyrir alla verkalýðsstéttina - og á hún skilið miklu kröftugri stuðning en forystumenn ASÍ hafa lagt fram af sparsemi.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON

Ársáskrift: kr. 1500
Stuðningsáskrift: kr. 2500

ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212 - 35904

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200 - 9

Landsbókasafn
Hverfisgata
101 Reykjavík

# Afhjúpum halaklepra heimsvaldasinna:
# Hátíðahöld Brésneff-vina MÍR í Reykjavík

Stofnun félagsins Menningartengsl Íslands og Ráðstjórnarríkjanna, MÍR, var á sínum tíma mikill og kærkominn viðburður fyrir verkafólk, kommúnista og alla þá á Íslandi sem áhuga höfðu fyrir því að fylgjast með sigrum hinnar sósíalísku byltingar í Sovétríkjunum. Þetta var á þeim tíma er Jósef Stalín var leiðtogi Kommúnistaflókksins og Sovétríkjanna; á þeim tíma þegar hvað mest reyndi á innviði Svétríkja sósíalismans vegna baráttu afturhaldsafla innanlands gegn sósíalísku uppbyggingunni og vegna ógna fasismans og nasismans á alþjóðavettvangi. Sovésk alþýða með Kommúnistaflokkinn í fylkingarbroddi átti sinn stóra hlut í því að brjóta Hitlers-nasismann á bak aftur, og íslensk alþýða fylgdist með sigrum í Svétríkjunum, m.a. vegna ötuls starfs Sovétvinanna í MÍR.

Félagið MÍR er enn til á Íslandi, en nú gegnir þetta félag ekki framsæknu hlutverki og styður ekki við bak þeim öflum sem efla vilja vitund verkalýðs á Íslandi og leiða hann til sósíalískrar byltingar . Þvert á móti, Hvað hefur þá gerst? Jú, Sovétríkin, þetta fyrsta sósíalíska ríki jarðarinnar, hefur "skipt litum". Afturhaldið og andstæðingar sósíalismans í Sovétríkjunum voru baráttuglaðir allt frá Októberbyltingunni 1917 og kommúnistunum tókst ekki að virkja alþýðufjöldann gegn gagnbyltingarhættunni nægilega og því gerðist það eftir dauða Jósefs Stalíns, að borgaraleg öfl náðu lykilaðstöðu í Kommúnistaflokknum og ríkinu, hreinsuðu baráttusinna og kommúnista úr valdastöðum og hófu niðurrif sósíalísku uppbyggingarinnar í landinu. Smám saman breyttust framleiðsluhættir í grundvallaratriðum og auðvaldsríki nýrrar tegundar sá dagsins ljós: í stað sameignar og notagildis framleiðslunnar kom nú séreign og gróði nýrrar yfirstéttar; í stað verkalýðs og vinnandi alþýðu við stjórnvölinn, kom ríkiseinokun nýrrar yfirstéttar á framleiðslutækjum og framleiðslu. Og þetta endurreista auðvaldsríki þróaðist fljótt og á alþjóðavettvangi tók það að sýna klærnar: úthafsfloti varð til og íhlutun Sovétríkjanna í innri mál ríkja úti um alla veröld eru vel þekktar staðreyndir. Þetta þarf ekki að tíunda. Sovétríkin eru nú alls ekki "vanskapað" sósíalískt ríki, eins og sum öfl á Íslandi (Fylkingin og "gamli kjarni" Alþýðubandalags) segja, heldur heimsvaldasinnað fasískt auðvaldsríki, sem alþýðu heimsins stafar hætta af engu síður en Bandaríkjunum.

MÍR MINNIST OKTÓBERBYLTINGARINNAR.

Ástæða þess að þetta er rifjað upp hér er sú, að nú hefur MÍR ákveðið að minnast Októberbyltingarinnar miklu í Rússlandi í nóvember n.k. með mikilli skrautsýningu. Skipuð hefur verið "heiðursnefnd" MÍR, til að annast þetta verkefni og skipa hana: Ívar H. Jónsson, formaður MÍR og fyrrum Þjóðviljaritstjóri, Anna María Edelstein, ritari "Íslensku friðarhreyfingarinnar", Eðvarð Sigurðsson, form. Dagsbrúnar, Margrét Guðnadóttir, prófessor (sem barðist gegn aðgerðum Samtaka herstöðvaandstæðinga við sovéska sendiráðið 21.ágúst s.l.), Stefán Ögmundsson, form. Menningar- og fræðslusambands alþýðu (og heimagangur í sovéska sendiráðinu í Reykjavík, Jón G. Einis, Jóhannes Jóhannesson, listmálari, Gunnar Jónsson, héraðsdómslögmaður, og Þóra Vigfúsdóttir.

Ekki er enn ljóst hvernig þetta Sovétvinalið hefur hugsað sér að minnast Októberbyltingarinnar, en fullvíst má telja að það verði ekki með því að rifja upp baráttu bolsévikanna fyrir uppbyggingu sósíalismans í Sovétríkjunum á tímum Leníns og Stalíns. Hins vegar er öruggt að þar verður af kappi hylltur Leoníd Brésjnef, forseti og flokksleiðtogi, og "friðaráætlanir" og "spennuslökunarstefna" hans í alþjóðamálum. MÍR er því beinlínis málpípa heimsvaldastefnu Kremlverja á Íslandi. Blekkingar Sovétleiðtoga um "friðarvilja" sinn eru bornar hér út af MÍR og stríðshættan vegna átaka Sovétríkjanna og Bandaríkjanna um heimsyfirráð er vandlega falin.

Verkalýðsblaðið mun fylgjast nánar með hátíðarhöldum Brésjnef vina í MÍR og Alþýðubandalaginu á næstu vikum og birta upplýsingar um þau. Íslenskir kommúnistar og allir sem raunverulega vilja berjast gegn heimsvaldastefnu og stríðshættu, verða að leggjast á eitt um að afhjúpa halaklepra heimsvaldasinna á Íslandi.

# Íslenskir auðmenn útbreiða hugmyndafræði Brésneffs

Sovéskir heimsvaldasinnar og leppar þeirra á Íslandi, m.a. í MÍR (Menningartengslum Íslands og Ráðstjórnarríkjanna) hafa á þessu ári hert mjög útbreiðslu á blekkingarþvælu og "friðar"rugli valdamanna í Kreml - á sama tíma og Sovétríkin vígbúast til nýrrar heimsstyrjaldar af meira kappi en nokkru sinni fyrr. Í september voru t.d. haldnir "sovéskir kynningardagar MÍR" í Reykjavík og í nóvember munu Bréjsnef-vinir hér minnast Októberbyltingarinnar með eilífum hólyrðum um fasisma og heimsvaldastefnu Sovétríkjanna á tímum Krúsjeffs og Bréjsneffs!

Það sem hins vegar vakti ekki minnsta athygli VERKALÝÐSBLAÐSINS í sambandi við "kynningardagana", var stuðningur íslenskra auðherra við framkvæmd þeirra. Eins og meðfylgjandi úrklippur bera með sér, hafa margir stórir viðskiptasamningar við Sovétríkin verið undirritaðir nýlega og gróðabrall íslenskra og sovéskra auðmanna vegna skipta á framleiðslu verkafólks á Íslandi og í Sovétríkjunum fer því vaxandi. Stærstu auðhringir Íslands, Sambandið, Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna og Eimskipafélagið, hafa mikil viðskipti við Sovét. Svo er einnig um málningarverksmiðjuna Hörpu í Reykjavík, Olíufélagið, Niðursuðuverksmiðju K.J. á Akureyri

Eftirtaldir aðilar hafa styrkt MÍR í sambandi við útgáfu þessa bæklings:

*Málningarverksmiðjan Harpa hf.,*
*Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna,*
*Eimskipafélag Íslands hf.,*
*Ferðaskrifstofa Kjartans Helgasonar hf.,*
*Olíufélagið hf.,*
*Sölustofnun lagmetis,*
*Samband íslenskra samvinnufélaga.*
**NIÐURSUÐUVERKSMIÐJA K.J., Akureyri**

Útgefandi ritsins Sovéskir kynningardagar MÍR 1977 er félagið Menningartengsl Íslands og Ráðstjórnarríkjanna, Laugavegi 178. Ábm. Ívar H. Jónsson. – Prentsmiðjan Hólar hf.

og fleiri. Öll þessi fyrirtæki styrktu MÍR með fjárframlögum til að gera "kynningardagana" sem best úr garði og munu þeir örugglega rétta MÍR drjúga sjóði til að minnast Októberbyltingarinnar myndarlega! Allt fyrir gróðann! Íslenskir auðmenn hafa meira að segja byrjað útbreiðslustarf hugmyndafræði sovéska fasismans í samráði við útsendara hans í Reykjavík og leppana í MÍR. Þannig liggja til dæmis frammi í Málningarverksmiðjunni Hörpu ótal bæklingar og kynningarrit frá Sovét sem forstjórarnir láta liggja frammi fyrir verkafólkið til lestrar! Já, stundum er veröldin skrítin.

Á meðan sósíalismi var við lýði í Sovétríkjunum, þá reyndu íslenskir auðmenn með öllum ráðum að koma í veg fyrir að verkafólk kynntist sigrum sósíalismans og tileinkaði sér baráttuhefðir stéttarbræðranna í Sovétríkjunum. Nú er hins vegar öldin önnur. Íslenskir auðmenn hjálpa til með útbreiðslu hugmyndafræði nýju borgarastéttar Sovétríkjanna með öllu móti. Betri sannanir fyrir raunverulegu eðli Sovétríkjanna í dag geta íslenskir marx-lenínistar og verkafólk á Íslandi tæpast fengið!

## 10 milljarða olíusamningur við Sovétríki

VIÐSKIPTARÁÐUNEYTIÐ hefur samið um kaup á olíuvörum frá Sovétríkjunum fyrir 10 milljarða kr. á næst... samningur þar að ... ritaður í Reykjavík ... Þórhallur Ás... neytisstjóri, sem ... lenzku viðræ... sagði í samtali ... gær, að sami... kaup á 200 þú... olíu, 130 þús... olíu og 90 þ...

...síni og væri þetta mjög svipað magn og keypt væri frá Sovétríkjunum af þessum vörum á þessu ári. Andvirði þessa samnings væri 50 milljónir dollara eða ...klega 10.000 milljónir króna.

...hallur, að verðið ...Ásverði, og ... um

...sæju um flutningan... væru flutningsgjö... stæð.

Avarsjef, Sojusjnepfte exp... samninginn af há... og af Íslands hál... geirsson. Auk þó... viðræðunum for... anna þeir Vilh... ...ndur Ásgei... ... enn...

## Langtíma viðskiptasamningur milli SÍS og sovéska Samvinnusambandsins

**Fyrir skömmu var undirritaður í Moskvu samningur um vöruskipti á milli Sambands ísl. samvinnufélaga og Samvinnusambands Sovétríkjanna, Centrosoyus. Gildir samningurinn fyrir árin 1977 til 1980.**

Hér er um að ræða fyrsta langtíma viðskiptasamning, sem samvinnusambönd þessara landa hafa gert með sér. Á fyrsta ári er gert ráð fyir 400 milj. kr. viðskiptum á hvora hlið, sem fari síðan vaxandi á samningstímabilinu. Þær vörutegundir ... bandið ...

um samningi eru allskonar skinnavörur, værðarvoðir og prjónavoðir úr ull. Prjónavörurnar verða að mestu leyti framleiddar hjá prjónastofum víðsvegar um landið. Sambandið mun aftur á móti kaupa gasolíu og ýmsar matvörur frá Samvinnusambandi Sovétríkjanna.

Samninginn undirrituðu þeir Erlendur Einarsson, forstjóri Sambands ísl. samvinnufélaga og Supotnitsky, varaforseti Samvinnusambands Sovétríkjanna. Einnig voru við staddir undirritun samningsins þeir Hjört... ríksson, fram...

# Fjárlögin 1978:
# 10 milljarða „gróði“ ÁTVR
## - 39 milljónir til varnarbaráttunnar.

Drykkjuskapur og tóbaksreykingar eru plága á Íslandi og svo hefur verið lengi. Kommúnistar í öllum löndum hafa varið nokkru afli í að berjast gegn þessum skaðvöldum í verkalýðsbaráttunni og öllum vímugjöfum. Verkalýðsblaðið hefur mjög takmarkað látið frá sér fara um þessi mál, þó tilefnið hafi síður en svo skort. Á því þarf að verða bót.

Þegar sósíalísk hreyfing reis hvað hæst á Íslandi á milli heimsstyrjaldanna, gerðu kommúnistar sig talsvert gildandi í bindindishreyfingunni og börðust gegn ofneysluáfengis meðal verkafólks og vinnandi alþýðu. Þetta starf skilaði árangri þó ekki hafi hann auðveldlega verið mælanlegur. EIK(m-l) eru ekki bindindissamtök, en samtökin leitast við að taka áfengismálið upp sem pólitískt vandamál og berjast gegn neyslu áfengis í eigin röðum og meðal verkafólks og baráttusinna. Það að alþýðufólk neyti áfengis á Íslandi er staðreynd, sem ekki verður á móti mælt. Gegn þessu vandamáli verður ekki barist með bönnum, heldur fyrst og fremst með pólitískri uppfræðslu.

Áfengið notar yfirstéttin til að slæva baráttuþor og þrek verkafólks og alþýðu. Á meðan stór hluti verkalýðs notar frítíma sinn til að drekka, þá er stéttarandstæðingnum borgið. Kommúnistar berjast fyrir því að verkafólk noti frítíma sinn til að efla þrek sitt sem stéttar í baráttu hennar fyrir betri kjörum og nýjum þjóðfélagsháttum. Í stað þess að stunda drykkjusamkomur, má efla andann með lestri verkalýðsbókmennta eða efla baráttuþrekið með stórum og smærri fundum.

AUÐVALDIÐ GRÆÐIR FÚLGU Á BRENNIVÍNINU

Önnur hlið á áfengismálinu er óhemju mikill gróði ríkisvaldsins á áfengissölunni. Samkvæmt upplýsingum ÁTVR, er áætlaður gróði ríkisins af áfengi og tóbaki hvorki meira né minna en 8 milljarðar króna á þessu ári! Samkvæmt fjárlögum næsta árs er ætlun borgarastéttarinnar að sökkva enn frekar upp í ausu sinni með brennivínssölu og tóbakssölu. Þá er gert ráð fyrir að gróðinn verði tæplega 10 milljarðar, en sumir álíta að hækkanir á þessum varningi muni jafnvel verða enn meiri en fjárlög gera ráð fyrir og gróðinn meiri sem því munar. Til samanburðar má geta þeirra liða fjárlaganna sem innihalda framlag ríkisins til áfengis- og tóbaksvarna á Íslnadi á næsta ári. 18 milljónir eiga að fara til bindindisstarfsemi, 1,2 milljónir til ungtemplara og 20 milljónir til tóbaksvarna. Niðurstaðan: 39,2 milljónir í baráttu gegn áfengis- og tóbaksplágunni; 10 milljarðir í gróða!

Þessar staðreyndir verða vonandi öllum baráttusinnum fyrir bættu lífi verkalýðs hvatning til aukinnar baráttu. Okkur varðar ekkert um það þó borgarastéttin eigi við sukk að stríða, en okkur varða öll félagsleg vandamál alþýðu.